Jón Jónsson
Bóru

# DAGSBRÚN.

Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.

I. GIMLI, MAN. FEBRUAR 1893. 2.

*Guð drottinn er sannleikurinn, hann er lifandi Guð og eilífur konungur* (Jer. 10. 10.,) *Himnarnir segja frá Guðs dýrð og festingin kunngjörir verkin hans handa* (Sálm. 19. 1.)

Mörgum kann að verða það, að spyrja, hvort það séu vísindin, sem eru að eyðileggja trúna. Vér sjáum einn vísindamanninn koma á eptir öðrum, og neita hinu eða þessu atriði trúarinnar; einn kemur og segist hafa óhrekjandi sannanir fyrir því, að þetta atriði trúarinnar sé alveg rangt,svo kemur hinn annar og þriðji með sama framburðinn. Hvernig stendur á þessu? Vissulega er það svo, þetta kemur fyrir dags daglega. Margt af sannleika trúarinnar, sem menn hafa ætlað að vera, hefir orðið að víkja fyrir sannleika þeim, sem fæst fyrir reynsl–una og vísindin. Sá sannleikur ryður sér til rúms, hvort sem vér vilj–um það eður ekki. Þótt vér af öllum mætti stæðum á móti honum,þá dygði það ekkert, hann brýtur niður allt, hann sigrar alla hleypidóma, yfirstígur öll hindurvitni. Sannleikurinn lætur menn nauðuga trúa sér, á hann bítur ekkert vopn, fáfræðin og þekkingarleysið er sú brynja, sem honum hefir orðið erfiðast, að höggva í sundur, en þó rifn-ar hún nú með degi hverjum.

Vísindin eru opinberun sannleikans og standa óhögguð, þó að allur heimurinn kæmi á móti. Trúin er sannleikur sá, er vér ætlum guð-dómlegann,en getum þó ekki ætíð prófað með sönnunum þeim, er vér prófum vísindin með. Það liggur í augum uppi, að þetta tvennt, vís–

indi og trú, getur ekki, og má ekki koma í bága hvað við annað, þá væri annaðhvort rangt.

En, ef maður fer nú að verða hræddur um, að framrás vísindanna veiki og eyðileggi trúna, þá sýnir það einmitt trúleysi þess hins sama manns, sýnir það, að hann vantar traust á sannindum trúar sinnar, því svo framarlega, sem trúin sé grundvölluð á sannleika, og byggð upp af sannleika, þá er hún óhagganleg eins og hin sönnu vísindi. Nú hefir trúin þenna sannleikans grunnvöll, hið guðdómlega innsta eðli hennar er ómótmælanlega satt, er grundvallað í eðli mannsins, í öllu fyrirkomulagi heimsins. En utan um þenna innri guðdómlega kjarna hefir verið hrúgað villum, og ýmislega löguðum mannasetningum. Þegar flokkarnir hafa deilt í kirkjunni, þá hefir opt einn tekið þetta, annar hitt til bragðs, til þess, að draga fólk í flokk sinn. Þetta hýði, utan um hinn innri kjarna, þarf að taka burtu, til að komast að því guðdómlega í trúnni. Um hinar liðnu aldir hafa menn ýmist verið að bæta við sínum eigin setningum inn í trúna, eða þá, að nema hinar gömlu burtu.

Á fyrri öldum kristninnar var því slegið föstu, að jörðin væri miðpunktur alheimsins. Fyrir hana voru stjörnurnar gjörðar, sólin og tunglið, sem allt átti að ganga í kringum jörðina, sem sína þungamiðju. Ef að einhver efaðist um þetta, þá var hann talinn guðlaus maður, þar eð hann efaðist, um hina einföldu kenning biflíunnar. Fyrir að segja, að jörðin væri hnöttótt og gengi í kringum sólina, var Galilei í fjötra færður og á gamals aldri var hann neyddur til að sverja, að hann hefði rangt fyrir sér, eða þola dauða, að öðrum kosti. En þrátt fyrir ofsóknir kirkjunnar varð sannleikurinn heyrum kunnur, og guðfræðingarnir neyddust til, að viðurkenna hann. En hvort varð nú þetta nokkuð til þess, að veikja trúna? Öldungis ekki! einmitt hið mótsetta. Ein villan var þar numin burtu úr trúnni, og því varð trúin styrkvari en áður; því villur, sem haldið er föstum, en almenningur efar, eru einmitt til þess, að eyðileggja alla trú. Trúin steig þar stórt skref fram á götu sannleikans, og hverju var það öðru að þakka, en vísindunum.

Áður fyrri voru tunglssjúkir menn álitnir djöfulóðir, og áttu því víðast illri meðferð að sæta, sama var um slagaveika menn. Holdsveikir menn áttu að vera slegnir þessum kaunum af drottni og voru, allt fram á miðaldir, ofsóttir og hraktir úr einni borg í aðra, kæmu þeir að borg einni, voru þeir barðir í burtu, enginn mátti auðsýna þeim nokkuð gott, fólkið flúði þá, sem eitruð kvikindi, því kirkjan kenndi, að menn skyldu firrast þessa óvini Guðs. En nú hafa vísindin sannað, að

tunglssýki, slagaveikí, holdsveiki, eins og allir aðrir sjúkdómar, komí af náttúrlegum ástæðum; og nú gengur líka kirkjan sjálf fremst í flokki, að líkna þeim, að byggja fyrir þá sjúkrahús, að lina þjáningar þeirra á allar lundir.

Þarna hrósuðu vísindin sigri yfir kirkjutrúnni; en hvort veikti það nú hina kristnu kirkju? Öldungis ekki! Það tók einmitt burtu af henni svartan blett, óttalegu hégilju, en leiddi inn í hana nýjan anda kærleikans og mannúðarinnar, sem ósegjanlega mikið hefir styrkt hana.

Þegar heil löndin eyddust, af einni eða annari plágunni, þá fyrirskipaði kirkjan föstur og bænahöld, til að afstýra þessu. En plágurnar héldu áfram, og deyddu jafnt mennina, karla, konur og börn, í hundraða og þúsunda tali.

Einlagt var ein fastan boðuð af annari, menn voru sendir á stað, til helgra skrína, hver á fætur öðrum, en samt hélt plágan áfram, þangað til hún var búin að rasa út, og eyða heil héröðin af fólki; og á meðan kenndi kirkjan einlægt, að þetta væri bölvun, send af Guði, sem hegning fyrir syndir mannanna. En nú kenna vísindin, að plágurnar, þessar eyðandi drepsóttir, komi af náttúrlegum ástæðum, og til þess, að stemma stigu fyrir þeim, þá þurfi, að nema burtu ástæðuna fyrir plágunni, hver svo sem hún er. Það þarf, að bæta lifnaðarháttinn, fæðuna, klæðnaðinn, þrifnaðinn, og þegar menn fóru að vinna að þessu þá fóru líka plágurnar að mínnka. Hvað hefir nú þetta veikt trúna? Í staðinn fyrir föstur og pílagrímsferðirnar, hefir komið hreinlæti, þrifnaður, góð og betri aðbúð. En það hefir líka sýnt mönnum, að Guð stjórni heiminum *eptir lögum*, sem hann hefir þar til sett, og sem hann lætur vera óbreytanleg, eins og hann er sjálfur.

Þegar jarðfræðin fór að lesa aldur jarðarinnar á klettunum, og sagði, að jörðin, í staðinn fyrir að vera nálægt 6,000 ára gömul, væri miklu eldri, að það hefði þurft tugi eða hundrað þúsundir ára, til þess, að mynda eitt eður annað jarðlagið, og að það skipti að minnsta kosti 100.000 ára, sem maðurinn hefði verið á jörðinni, þá verða klerkar fyrst, sem þrumu lostnir, því Móses hafði sagt, að jörðin með öllu því sem á henni var hefði verið sköpuð á 5 dögum og maðurinn á hinum 6. og voru ekki nema tæp 6,000 ár síðan þetta skeði, eptir biflíutali. Þessi nýja skoðun var talin óttalegt guðleysi og allir taldir sjálfsagðir, að fara í hið eilífa bál, sem henni gáfu rúm. Hefði rannsóknarrétturinn þá verið á ferðinni, þá hefðu þeir allir verið lifandi á bál bornir. En nú dugði það ekki, og því voru þeir brennimerktir, sem óvinir Guðs og manna og útskúfað úr kristilegu félagi; en af því

þeir fóru með eilífan sannleika, þá dugðu ekki mótspyrnurnar, sannleikurinn sigraði, eins og hann ætíð mun gjöra.

Þegar þetta varð nú mönnum ljóst, að sjálfur Móses varð að víkja fyrir sönnunum vísindanna, þá bjarmaði fyrir stórum sannleika í hinum kristna heimi. En það var það, að sannleikurinn er ekki fólginn í bókstafnum heldur andanum, að það væri ekki bókstafur hinnar helgu bókar, heldur andinn, sem af Guði væri innblásinn. Ennfremur roðaði þá fyrir enn öðrum sannleika, nefnilega þeim, að Guðs vilji gæti verið ófullkomlega skýrður, af ófullkomnum mönnum, og misskilinn, svo að menn þyrftu, að leita að honum. Þá fara og allir hugsandi menn að játa það, að Guð opinberi aldrei neinn sannleika í náttúrunni eða vísindunum, sem stríði á móti hans opinberaða orði, og beri þeim ekki saman, þá hlýtur annarhvor að vera rangur.

Hver nýr sannleikur, sem vísindin opinbera mönnum ætti því, að kasta nýjum ljóma á trúarbrögðin, því hvert eitt nýtt lögmál, sem vér finnum í alheiminum, það sýnir oss í skærara og skærara ljósi, dásemdir skapara alheimsins, það eykur meira og meira lotningu vora og ást á honum, sem gjörði himin og jörð og öll hin furðulegu verk náttúrunnar.

Það má raunar segja, að hinar fögru listir, mannúð, menntun hafi gjört mannkynið þýðara og blíðara, en þá eru þó vísindin undirstaðan undir öllu þessu; þau hafa byggt gufuskipin, sem fara álfanna á milli, járnbrautirnar, sem fléttast um löndin, fréttaþræðina, sem tengja saman endimörk jarðar, og allt miðar, til að gjöra allan heiminn að einum bræðraflokki, að börnum hins sama himneska föður, að einni familíu, er himnafaðirinn hefir sett á þenna blett, til þess, þeir skyldu á endanum læra að elska hver annan, allir á endanum tilbiðja hinn eina og sanna Guð; að einni stórri familíu, sem faðirinn veitir blessun sína, sem hann leggur í skaut alla undrakrapta náttúrunnar, sem hann alla elskar, með hinni sömu föðurlegu elsku, sem hann alla leiðir til sín, þótt vér í skammsýni vorri skiljum ekki hans djúpsettu ráð og vísdómsfullu vegi.

Þetta gjöra vísindin; þau eyða villunum draga mannflokkana saman, svo að þótt hægt fari, þá miðar heiminum einlægt áfram til einnar og sömu trúar á skapara alheimsins; og það er jafn þýðingarlaust, að reyna að stífla þessa rás, eins og að fara að reisa upp stafprik móti jökulhlaupinu eða snjóflóðinu, sem veltur ofan frá hamrabeltinu; en hver, sem steini kastar í þann vegg, hver, sem sannleikann styður með kröptum sínum; þótt litlir séu, hann er einn af samverkamönnum

Krists, sem sagðist vera kominn í heiminn til að bera sannleikanum vitni.

Trúin er aðalskilyrðið við trúarbrögðin, en í vísindunum er hún ekki til. Þótt vér getum ekki sannað einn hlut, af því vér skiljum hann ekki, þá er ekki þar með sagt, að hann sé rangur. En hinsvegar getum vér aldrei trúað því, sem er gagnstætt öllu viti voru, þekkingu og skynsemi. Vér trúum því t. d.: að Guð sé til, þótt vér skiljum ekki eðli hans, en vér getum ekki trúað því, að hann sé ranglátur, eða vanmáttugur, því það er gagnstætt allri skynsemi vorri, að ætla,að hið fullkomna réttlæti fari með ranglæti, eða að almættið, sem skapað hefir allan heim, sé vanmáttugt.

Nú eru samt sumir, er segja, að vér megum ekki treysta mannlegri skynsemi. En ef að vér köstum henni frá oss, þá erum vér, sem stýrislaust skip út á reginhafi, því það er eingöngu fyrir mannlega skynsemi, að vér getum gjört greinarmun á réttu og röngu ; með henni hljótum vér að grípa trúna hún verður að leiða oss til Guðs, eins og hún á að leiða oss í gegnum lífið.

Ef vér nú neytum skynseminnar, þá sjáum vér að vísindin hafa rutt burtu mörgum ásteytingarsteininum í trúarbrögðunum, mörgu því er nú myndi hneyksla menn ef því væri haldið föstu. Ef vér lítum yfir söguna, þá hljótum vér að undrast stórlega, hvernig hinar fyrri kynslóðir hafa farið að trúa hinu eða þessu, sem vér sjáum, að ekki getur verið. En það hverfur smátt og smátt, og menntunin gjörir því ómögulegt, að festa rætur aptur.

Það hefir opt verið borið vísindamönnum á brýn, að þeir væri trúlausir; en vér ætlum það hafi verið um skör fram. Þeir ganga sjaldan hina lögðu braut í trúmálum, en optlega eru þeir trúmenn miklir upp á sína vísu. En klerkar geta ekki fellt sig við það, að nokkru sé hagg að af hinum gamla bókstaf, og því æsast þeir upp móti vísindamanninum. Þeim hættir opt við, að ætla, að Guð hafi fyrir löngu lokið opinberun sinni til mannanna. Eptir daga Adams hafa menn ætlað, að öll opinberun væri úti, eptir daga spámannanna hafa menn einnig ætlað, að öll opinberun væri um garð gengin, eptir daga postulanna hafa menn enn þá álitið, að opinberuninni væri lokið; hún er aðeins byrjuð, og heldur áfram til daganna enda; einlægt sýnandi oss skýrar og skýrar hátign og heilagleik skaparans, einlægt gjörandi oss ljósari og ljósari hans kærleika, speki og mátt, einlægt gjörandi oss fullkomnari og fullkomnari í trúnni, þekkingunni og kærleikanum; því,að, því meira, sem vér þekkjum af Guði, því meira hljótum vér að elska hann og vegsama.

Menn tala opt um sköpun heimsins, eins og hún sé fyrir löngu um garð gengin;en jeg skoða það svo sem vér sjeum einmitt mitt í sjálfri sköpunarsögunni. Vér getum séð sköpunína nú, eins og hún hefur einlægt haldið áfram, frá því tíðirnar byrjuðu. Þegjandi, hægt og hægt breytist jörðin með öllu því, sem á henni er. Gamlir kynflokkar manna, dýra, jurta eru að deyja út, en nýjir koma aptur í þeirra stað; nýjar tegundir skapast, nýjir þjóðflokkar myndast af hinum gömlu, rétt eins og barnið fæðist af móðurinni. Og eins og það er í hinum líkamlega heimi, þannig er það í hinum andlega. Nýjar hugmyndir fæðast af hinum gömlu, nýr sannleikur fæðist af hinum gamla. Og þegar vér lítum til hins ótæmandi brunns, Guðs eilífu speki, þá getur oss ekki einu sinni til hugar komið, hvað fyrirbúið muni vera hinum komandi kynslóðum.

Það er öldungis víst, að Guð opinberar sig á margfaldan hátt í heiminum, enn þann dag í dag, og eins og sköpunin enn heldur áfram eins heldur opinberunin enn þá áfram; einlægt finna menn nýtt og nýtt lögmál í allsherjarríki drottins, einlægt finna menn nýjar og nýjar dásemdir, einlægt fá menn hærri og veglegri hugmyndir um vorn elskulega himneska föður. Efnafræðingurinn í stofu sinni; jarðfræðingurinn sem prófar steinategundirnar með hamri sínum; stjörnufræðingurinn, sem skoðar stjörnuþokurnar í næturkyrrðinni, læknirinn, sem grefst eptir lögmáli, er stjórnar lífi og heilsu manna, fornfræðingurinn, sem grefur upp lífskjör hinna útdauðu mannflokka, listamaðurinn, skáldið, vélasmiðurinn, allir fá þeir opinberanir. Já! í hjarta hvers einasta manns opinberar Guð sig, ef vér að eins viljum veita því eptirtekt. Eða hversu finnum vér krapt hans anda opt og tíðum streyma gegnum hjörtu vor og gagntaka sálir vorar? Hvernig finnum vér oss ekki optlega knúða til, að lofa hann og vegsama, fyrir allar hans velgjörðir við oss, fyrir allan hans kærleika? Á gleðistundunum eru hjörtu vor optlega full af þakklæti við hann, vér þráum það þá, að lofa hann og vegsama; jafnvel í sorginni finnum vér að faðirinn himneski er oss nálægur, hann þerrar tárin af augum vorum, vér opnum hjörtu vor fyrir honum og vonarfullir lítum vér fram til þess tíma, er vér vonumst eptir, að mega vera honum nálægir. Vissir um hans óendanlegu náð og miskun, fyllumst vér gleði yfir, að hugsa til þeirrar stundar, er vér fáum, að kasta þessum vesæla líkama, sem heldur oss föstum í járnviðjum, sem einlægt kemur oss til, að brjóta boð vors elskulega föður á himnum. Vér þráum það, að mega þá lifa í andanum hjá andanna föður, að mega fullkomnast í kærleikanum og réttlætinu,að mega skoða hans dásemdir í alheiminum, frá einu stjörnu- eður sólkerfinu til ann-

ars. Þetta er ein tegund opinberunarinnar,hvernig Guð lætur sig í ljós í hvers eins hjarta, og þessi opinberun verður hverjum þeim, sem reynir hana, það óslítandi band, er tengir hann við himnaföðurinn, sem léttir honum alla mæðu lífsins,sem fyllir hann óbilandi vonar og óslökkvandi gleði; þreyjandi fagnandi,horfir hann fram til þeirrar stundar,þegar drottinn lofar honum, að leysast við líkama þenna og líta sína dýrð. Hversu glaður og ánægður er hann þá yfir hverju því spori, sem hann hefir stigið á götu sannleikans? en um leið hlýtur hann, að hryggjast yfir hverri þeirri stundu, er hann vann á móti sannleikanum, því þá stendur hver sú stund, sem múrveggur milli hans og himnanna herra. Í anda heyrum vér sannleikans konung Krist segja við alla þá, er stutt hafa sannleikann og barist fyrir honum, í vísindunum, í mannlífinu, í trúbrögðunum, við alla þá, sem barist hafa móti bágbiljunum, hégiljunum, hleypidómunum, hvort heldur í trúbrögðum eða öðru „komið blessuð börn míns föður og eignist það ríki, sem yður var fyrirbúið frá upphafi“, þér hlýdduð minni röddu og sýnduð með því, að þér elskuðuð mig. Eg kom í heiminn, til að bera vitni sannleikanum; þér, sem barist hafið fyrir sannleikanum, þér eruð allir mínir bræður og systur, komið nú og skoðið dýrðina drottins. Ó! þú góður Guð vor faðir! gef oss að vona fram, að þreyja þessa stund, sem þá sælufyllstu í tilveru vorri, svo vér getum dáið með þitt nafn á vörunum; hrindum burtu hræsninni en eflum sannleikan þá erum vér samverkamenn Krists. Í Jesú nafni. Amen.

---

# Hugleiðingar um ritninguna.

[Framhald.]

Hið fjórða atriði, sem varhugavert er við þessar bækur, er það hvað mönnum hættir til, að *lesa á milli línanna*, að útskýra þær á allan mögulegan máta, finna sannanir í þeim fyrir óendanlega mótsettum skoðunum. Eptir því, sem mannkyninu fer fram í vizku og þekkingu, eptir því vex það frá þessum gömlu bókum, þær voru til búnar í bernsku þjóðanna, er þær voru ómenntaðar, nú eru menn komnir á miklu æðra þekkingarstig og því er það margt í þeim, sem ekki getur átt við hina nýrri tíma, en það hefir verið föst regla, að einlægt hafa

áhangendur þessara bóka fundið óendanlegar útskýringar, til að sanna hið eilífa gildi þeirra, þeir koma með sína *dýpri merking* orðanna, setninganna,þeir snúa öllu í svo stálharðan hnút,að enginn annar en sjálfir þeir getur leyst hann í sundur. Menn ganga að því vísu, að í bókum þessum finni þeir yfirnáttúrlega speki, og þeir eru vissir, að finna þar allt það, er þeir sækja eptir, að minnsta kosti vita menn ekki til, að nokkrum hafi brugðist það enn. Menn snúa og umhverfa setningum, þangað til menn hljóta, að fá út úr þeim þá meiningu, sem þeir hafa ætlað sér. Menn finna í þeim staðhæfingar, kenningar, líkingar, sem aldrei hafa í þeim verið, sem ekki gátu verið til á þeim tímum, er ritin voru samin. Jafnskjótt og einn eður annar kemur með einhverjar nýjar skoðanir í trúmálum, þá er farið í ritninguna og hún látin staðfesta og sanna hinar nýju kenningar, það gjörir minnst til þó áður hafi á henni bygðar verið alveg gagnstæðar skoðanir. Vér þurfum ekki annað, en líta til hinna kristnu trúflokka, nærfelt 200 að tölu sem allir byggja á ritningunni, opt alveg mótsettar skoðanir. Þannig drógu Grikkir fyrrum allskonar kenningar út úr ritum Hómers. Í Parkers „Discourse of Religion" segir:að „þeir hafi fundið þar hina Neptúnsku og Vúlcansku skoðan um myndun jarðarinnar, skoðunina um hnettmyndun hennar; þeir hafa fundið þar kenningar heimspekinganna: Democritusar, Socratesar, Platós, sagnafræðingsins Heródóts o.s frv, sem allir voru uppi mörgum hundruðum ára eptir Hómer.

Meiri hluti hinna vísindalegu skoðana heimsins hefir, fyr eða seinna. komist í bága við skoðanir og setningar guðfræðinganna.

Þegar, er brydda fer á einni eður annari vísindalegri skoðun þá verður kirkjan í uppnámi, klerkar hamast á móti henni, styrjöldin harðnar einlægt meir og meir þar til öllu slær í dúna logn. Guðfræðingarnir eru þá búnir að sjá, að þeim dugar ekki, að standa á móti þeir finna að sigurinn er að sleppa úr höndum sér. Þeir fara að hugsa sig betur um, þeir fara að lesa upp aptur ritningar sínar, þá sjá þeir allt í einu, að öll þessi deila hefur orsakast af misskilningi, af rangri útleggingu vissra ritningarstaða. Ritningin hafi náttúrlega kennt þessa nýju vísindalegu skoðun frá upphafi veraldar, eða tíma þeim, er hinir innblásnu menn rituðu bækur sínar. Vér viljum að eins taka eitt dæmi, af ótal mörgum, það er um lögun jarðarinnar. Allt fram á daga þeirra Kopernicusar og Galileis kenndi kirkjan það, að jörðin væri flöt og sólin gengi í kring um jörðina; hver, sem annað sagði, var ofsóktur af klerkum og kennilýð; spekingurinn Galilei átti að brennast á báli, ef hann játaði ekki, að jörðin væri flöt; áður var hann búinn að segja, að hún væri hnöttótt, og ekki slepptu klerkar honum fyr, enn

hann hafði svarið það, að hann hefði haft rangt fyrir sér, að segja, að jörðin væri hnöttótt; svo fóru menn að sigla kring um jörðina og þá loks gátu klerkar ekki lengur staðið á móti, en sneru þá við blaðinu og sögðu ýmist, að ekkert væri um það kennt í ritningunni, eða að hún hefði einmitt ætíð kennt, að jörðin væri hnöttótt, Hitt hefði verið misskilningur.

Þá er hið 5. atriði, sem eptirtektavert er við allar hinar helgu bækur, en það er það, hve *líkar eru kenningar þeirra*. Það er nú eng um efa undirorpið, að fórnar- og friðþægingarhugmyndin er komin inn í trú Gyðinga og kristinna manna úr hinum heiðnu trúbrögðum, Menn vita það að skírnin hefir verið viðhöfð löngu fyrir tíma Krists í mörgum öðrum löndum en Gyðingalandi. Kveldmáltíðina hafa menn einnig fundið í öðrum trúbrögðum. Umskurnin byrjaði ekki fyrst hjá Gyðingum, heldur finna menn hana í Egyptalandi löngu fyrir daga Gyðinga, löngu fyrir tíma þeirra ættfeðranna Abrahams, Ísaks og Jakobs,

Hugmyndin um óflekkaðan getnað og meyborna guði er sameiginleg í mörgum trúbrögðum, miklu eldri en trúbrögð Gyðinga eru. Það er sagt um Zóróaster, að hann hafi verið getinn af geisla hinnar guðdómlegu skynsemi. Bæði Búddha og Krishna, frelsarar Hindúa eiga að vera fæddir á yfirnáttúrlegan hátt. Ritningar Hindúa segja oss að móðir Krishna hafi verið yfirskyggð af guðnum Brahma, 1200 árum fyrir Krists burð, áður en nokkur bók ritningar vorrar var skrifuð.

Hinar kínversku ritningar innihalda spádóma um kínverskan Messías, er koma skyldi til þeirra. Kraptaverk koma fyrir í-öllum biflíum, svo sem að lífga dauða, lækna halta og blinda,raddir tala af himni til þeirra manna, er guðirnir elska, Í Higginsons „Sympathy of Religion" bls 9—11stendur: „Vjer rekum oss stöðugt á hin sömu einkenni hjá hinum ýmsu trúflokkum: munka, presta, kristniboða og pílagríma, bænir, guðsþjónustur, fórnargjörðir. Reykelsi, kerti, hið vígða vatn, verndargripi og helga dóma, á krossinn, höggorminn, hið alltsjáanda auga, á geislaljómann af höfðum hinna heilögu manna eða engla, á spádóma og kraptaverk. Hinir dauðu eru lífgaðir og djöflar útreknir. Vjer finnum hinar sömu hátíðir, því páskar og jól voru heilög haldin sem vor og hausthátíðir af Egyptum, Persum, Söxum og Rómverjum; jólin í minningu þess, að þá var sólin farin að hækka á lopti, og litu menn þá fagnandi mót hinni komandi tíð, er hún smátt og smátt færði meiri og meiri hita og líf á jörðina. Vjer sjáum móðurina, með sinn goðborna son, málaðan í hinum fornu musterum í Etrúríu (á Ítalíu) Arabíu, Egyptalandi og Thíbet (í miðri Asíu). Þannig er og hugmyndin um holdtekjuna afargömul. Spámennirnir spá fyrir mörg hundruð

árum fyrir Krist, um Messías þjóðar sinnar. Vitringar leita hann uppi og færa honum gull, reykelsi og myrrhu, þannig Buddha (Indverskur) einum 600 árum fyrir Krist. Zóróaster og Buddha eiga engan mannlegan föður. Osiris (Egyfskur)er sonur Guðs. Hann er kallaður opinberari lífsins og ljóssins. Hann kennir fyrst sinni útvöldu þjóð, síðan fer hann með postulum sínum til heiðinna þjóða og sigrar heiminn friðsamlega. Hinir illu andar deyða hann þó að lokum; eptir dauða sinn stígur hann niður til helvítis, rís upp aptur og dæmir alla menn á dómsdegi. Þeir, sem ákalla nafn hans, verða sáluhólpnir. Buddha er fæddur af meyju, nafn hans merkir: orðið, *logos*, enn einkum er hann dýrkaður sem frelsari mannkynsins; Á bernskuárum hans furðaði kennara hans á skilningi hans og andsvörum. Hann freistaðist í eyðimörku o.s.frv. Svo segir Higginson.

Þegar kristniboðarnir fóru fyrst að boða Buddhatrúarmönnum kristni, þá brá þeim heldur en ekki í brún, að hitta þar trúbrögð, svo lík þeirra eigin trú að siðum, serimoníum og mörgum hugmyndum. Þeir skyldu ekkert í þessu og ætluðu, að þetta væri hrekkur af djöflinum, hann væri kominn þarna á undan þeim og hefði orðið fyrri til að boða sína trú í líkingu kristninnar; aumingja klerkarnir!

En það er ekki einungis, að ytri atriðum, sem ritningar hinna ýmsu trúflokka eru líkar, *kenningar* þeirra eru og optlega furðu líkar.

Hinn nafnfrægi málfræðingur og fornfræðingur *Max Müller* segir: „Engin trú er sú, svo ég viti til, sem ekki bjóði mönnum þetta: 'Þú skalt framkvæma hið góða, en forðast hið illa', —Ég hefi fundið í hinum fornu bókum bænir svo einfaldar og sannar, að vér allir gætum tekið undir þær."

Nú skulum vér taka grein eptir Búddha, Krist þeirra Hindúa um 600 f. Kr. og sjá hvað hann segir, það mætti vel hugsa það væri úr hinum fyrstu köflum gamla eða nýja Test.

„Allt sem vér erum, er afleiðing af því, sem vér höfum hugsað; það er grundvallað á hugsunum vorum, hvílir eingöngu á þeim. Ef maður talar eða framkvæmir af illum huga, þá fylgir honum sársaukinn, eins og hjólið fylgir fæti þess, er d[illegible]gur kerruna.

Eins og býflugan safnar hunanginu og skilur við blómið, án þess að gjöra því skaða, eins á hinn vitri að dvelja á jörðunni. 'Þessir synir eru mín eign og þessi auður er mín eign' hugsar heimskinginn. En þó á hann ekki sjálfan sig, miklu síður syni sína og auð.

Enginn skyldi hugsa léttúðlega um hið illa, eða segja í hjarta

sínu: það kemur ekki nálægt mér. Enginn skyldi hugsa léttúðlega um hið góða, eða segja í hjarta sínu; það kemur mér aldrei að gagni. Smámsaman fyllist vatnstunnan af hinum lekandi dropum.

Sá, sem hylur hin vondu verk sín með góðum verkum, hann lýsir upp heiminn, líkt og tunglið, er það kemur fram undan skýinu.

Menn skyldu sigra reiðina með kærlaik, hið illa með góðu, hina gráðugu með örlæti, lygarann með sannleika.

(Max Müller „Science of Religion,“ bls. 112.)

Og enn annað :

„Hvar er guð sá, er vér eigum að flytja fórnir vorar?“

Hann, sem fyrir krapt sinn er hinn eini konungur hins lifanda og vaknandi heims, —sem stjórnar öllu, mönnum og dýrum.— Hver er guð sá, er vér eigum að flytja fórnir? Hann, hvers mikilleika sjórinn og hin snæþöktu fjöll úthrópa; hann, fyrir hvern himininn er bjartur og jörðin föst, hann, sem myndaði himininn, já hinn hæsta himinn, hann, sem himinn og jörðin, líta upp til, fastskorðuð að vilja hans.

Hver er guð sá, er vér skulum fórnir færa? Hann, sem fyr ir mátt sinn leit ofar hinum vatnsþrungnu skýjum, skýjunum, sem veittu styrkleikann og kveiktu í fórninni, (eldingin), Hann, sem einn er guð yfir öllum guðum, sem er guð sá, er vér skulum fórnir færa.“

(Rig Veda X, 121. [Max Mullir þýddi.] )

(Framhald næst.)

---

# Athuganir við sköpunarsöguna.

[Framhald.]

Enn þá fjær eru stjörnurnar, þessir smáu deplar, er vér sjáum í himinblámanum; Það er eins og hinn forni söguhöfundur hafi álitið þá þýðingarlitla, hafi nærri verið búinn að gleyma þeim, því hann eyðir ekki fleiri orðum um sköpun þeirra, en þessuu: „þar að auki stjörnurnar“, Þó eru þær allar sólir, eins og sól vor,

margar eflaust miklu stærri, en sýnast svo smáar sökum hinnar feykimiklu fjarlægðar, Hin næsta þeirra a (alpha) centauri er í 12 billión mílna fjarlægð, og er það svo langt, að ljósið, sem fer 40,-000 mílna á einni sekúndu, mundi vera 3 ár og 8 mánuði á leiðinni þaðan.

Vér getum gjört oss nokkra hugmynd um þessa fjarlægð, er vér gætum þess, að frá tunglinu er ljósið rúma sekúndu, en frá sólinni rúmar 8 mínútur á leiðinni til jarðar vorrar, Þessi stjarna er þó næsta sólin, aðrar næstu tvær sólirnar eru helfingi lengra í burtu, sólin Siríus í þrefaldri eða ferfaldri fjarlægð, og sé ljós hennar jafnsterkt ljósi sólar vorrar, þá er ummál hennar þúsund sinnum meira, en sólarinnar. Flestar aðrar sólir (eða stjörnur, sem kallaðar eru) eru svo langt í burtu, að ekki er mögulegt, að mæla fjarlægð þeirra. En það eitt er víst, að allar eru þær sólir, og hver og ein að líkindum, er miðdepill í pláneta eða jarðstjarna kerfi.

Eitthvað 5,000 stjörnur eða sólir getum vér séð með berum augum, en þó er það sem ekkert, á móti öllum þeim ógna fjölda, er sjá má í góðum stjörnukíkirum. Í þeim sjást, að minnsta kosti, 75 millíónir, og eru það miklu fleiri stjörnur, en maður einn gæti talið á 5 árum, þótt hann sæti við 10 klukkustundir á degi hverjum og teldi 60 á mínútu hverri. Þegar vér gætum nú þess, að hver og ein af sólum þessum er miðpunktur í sínu sólkerfi, með sinn jarðstjarnahóp, er hún dregur með sér um geiminn, en sem vér ekki getum séð í kíkirum vorum, þá sjáum vér fyrst, að gamla tjaldbúðin Gyðinga fer að þenjast út og lampasalurinn gamli verður þá óendanlega víðáttumikill.

Hversu mikill munur er nú eigi á því, að festa þessa lýsandi hnetti í himingeiminn, eða hengja lampa neðan í hvelfing eina. Engin festi heldur þeim uppi, en þó svífa þeir um himinngeiminn, þeir sigla, sem undraskip um tómið, án þess nokkuð vatn sé til að fleyta þeim, eða nokkur vindur til þess, að knýja þau áfram, og án þess að villast nokkru sinni út af braut sinni. Sannarlega er það svo, að fyrir uppgötvunum vísindanna, vefst himinþakið saman, sem bókfell, eins og spámaðurinn sagði, og þó hrynja ekki stjörnurnar niður eins og laufblöð af vínviði. Og þó—og það er enn undraverðara,— þó falla þær í sífellu; hreifing þeirra, sem aldrei skeikar öld eptir öld, hún ar einlægt framhaldaudi fall; þær falla, eða hrynja, hver umhverfis aðra, í eilífum reglubundnum hringum. Tunglið hrapar umhverfis jörðina, eptir sama lögmáli og vínviðarlaufið eða fíkjan, er fellur til jarðar af vínviðar eða fíkju-

trénu. Það fellur eða hrapar og fallhraði þess er meira, en míla á hverri sekúndu. Sólin og stjörnurnar falla umhverfis þyngdarpunkta sína, og er fallhraði sumra þeirra 20 mílur á sekúndunni. Jörðin okkar fellur umhverfis sólina, um leið og hún í fallinu snýst um möndul sinn. Og á þessari eilífu ferð hlýða hnettir þessir lögum höfundar síns svo vel, að þeir eru „teikn tímum dögum og árum." Stjörnufræðingurinn reiknar meir að segja stundir dags og nætur eptir þessum gullnu deplum á himinþakinu svo að ekki skeikar um sekúndu eða sekúndubrot. Hversu miklu undraverðari eru nú þessir lifandi heimar, en lamparnir gömlu? þessir heimar sem festir eru með því, að láta þá vera á sífeldu hrapi, og eru knúðir áfram brautir sínar, svo að ekki skeikar feti um þúsundir ára, rétt eins og hin almáttuga hönd skaparans hefði leitt þá, fet fyrir fet.

(Framhald næst.)

---

# Trúarlegar hreifingar.

Býsna merkilegar hreifingar hafa nú gengið á í mörgum hinna protestantisku kirkjuflokka í umliðin 2 ár. Merkustu prestar, nafnfrægir prófessorar, kennarar á guðfræðasháskólum trúflokkanna hafa risið upp hver á fætur öðrum, og neitað einu eður öðru atriði í hinni gömlu trú. Optast hefir það verið eilíf fyrirdæming eða bókstaflegur innblástur. Hinir gömlu rétt-trúnaðarmenn hafa þá risið upp á móti þeim, svipt þá kjóli og kalli, eða rekið þá frá kennara embættum við háskólana. En þá hefur optast farið svo, að söfnuðirnir hafa heilir eða hálfir farið með þeim, eða þá að nefndirnar, sem ráða fyrir veitingu háskólaembættanna, hafa látið þá sitja kyrra. Sumir hafa verið kallaðir fyrir kirkjuþing, líkt og á tímum rannsóknarréttarins, en nú er sá munurinn að klerkar eru hættir, að geta brennt menn á báli, fyrir skoðanir sínar. Auk þessara umbrota einstakra manna, stendur nú og yfir mikið mál í Presbyteriönsku kirkjunni, og er það út af hinni gömlu trúarjátning þeirra, sem kennd er við Westminster, og þykir nokkuð hörð og ströng. Þeir segja það sé á móti samvizkum sínum, að kenna eptir henni, því hún sé ekki öll byggð á sannleikans grundvelli. Deilur þessar eru með köflum mjög harðar, svo að við liggur, að kirkja sú

klofni öll í sundur. Hinir frjálslyndari vilja svipta djöfulinn ögn af valdi sínu, og draga úr ógnunum helvítis, en það vilja aðrir ómögulega missa. Litlar líkur eru til að saman dragi með þeim flokkum, nema hinn rétttrúaði láti undan. Um fáa menn, geistlegrar stéttar, er nú jafnmikið talað hér í Vesturheimi, sem Professor Briggs, doktor að nafnbót og professor við Union theological Seminary í New York.

Fyrir eitthvað tveim árum flutti hann ræðu eina, til varnar guðdómlegum myndugleika ritningarinnar, Í ræðu þessari tekur hann skýrt fram agnúa þá, er á móti því væru, að ritningin hefði guðdómlegan myndugleika, eður væri af Guði innblásin.

Hið fyrsta er *biflíu dýrkun*, bæði það, að tileinka ritningunni nokkurs konar töfravald, sem nú er víðast farið að hverfa, og svo hitt, að greina hana frá öllum öðrum ritum, og setja hana ofar þeim; að koma með staði úr ritningunni, til sönnunar einu eður öðru, sem stríðir á móti heilbrigðri skynsemi; að menn skuli vera að bisa við að verja einn eður annan stað í henni, sem stríðir á móti öllu velsæmi og náttúrlegum réttindum manna.

Hið annað atriði á móti innblástrinum telur hann hinn *bókstaflega* innblástur, og getur þess, að í handritunum, sem N.T.er á byggt, séu 150,000 mismunandi lesmátar, og þótt margt af því sé óverulegt, þá segir hann, að margt sé mikils varðandi.

Hið 3. atriði telur hann *óvissu* um *höfunda* hinna ýmsu bóka. Ef innblástur bókar einnar á að miðast við það, að vér þekkjum þann, er ritaði hana, þá segir hann, að þær fækki drjúgum hinar innblásnu bækur. Prof. Briggs fer þó hægt í þessar sakir, því hann segir að eins. „Það er áreiðanlegt að Móses skrifaði ekki hinar 5 bækur, er honum eru eignaðar og ekki heldur Jobsbók. Ezra skrifaði ekki Kronikubækurnar, Ezrabók eða Nehemia; Jeremías skrifaði ekki Konungabækurnar eða Harmagrátinn: Davíð skrifaði ekki Sálmana, sem við hann eru kendir. Salómon skrifaði ekki Lofkvæðið eða Spekinnarbók að eins nokkurn hluta Orðskviðanna.“ En allt að einu er það víst, að Páll skrifaði ekki Hebreabréfið og Pétur ekki hið 2. Péturs-bréf og Daníel ekki bók þá, er honum er eignuð.

Oss þætti gaman að vita það, hverjir þeir væru, af merkum lærðum mönnum, sem þættust vita með vissu, hver hefði skrifað Samúelsbók, Konungabækurnar eða Esther, einnig Mattheusar- Markúsar- Lúkasar- og Jóhannesar guðspjöll, Postulanna Gjörninga, Efesusbréfið, hjarðbréfin svo kölluðu, 2.Thessalonikubr. Bréf þeirra Jóhannesar og Júdasar og Opinberunarbókina. Enginn maður veit þetta með neinni vissu. En hvernig getum vér haft óskeikanlega ritningu, ef

vér ekkert vitum um höfundana að bókum hennar? Mótstöðumenn Próf. Briggs standa fast á því, að með því sé helgi bókarinnar farin, sem hún og í sannleika er.

Hið 4. atriði er *óskeikulleiki*. Hér segist Prof. Briggs ekki vilja fara að byrja á að tína til einstöku atriði, því hann viti þá eigi hvar hann eigi að hætta.

Hið 5. og 6. atriði eru kraptaverk og spádómar. Hafa atriði þessi jafnan verið talin sem alveg órækur vottur um guðdómleika ritningarinnar, en við rannsóknir vísindanna hafa menn farið að smá-linast á einu eðar öðru kraptaverkinu, þegar nýrri uppgötvanir sanna að hitt og þetta hafi verið náttúrlegt, sem áður var talið yfirnáttúrlegt. Menn eru farnir að sjá, að drottinn stjórnar heiminum með óbreytanlegu lögmáli og að hin dásamlegustu kraptaverk eru einmitt viðhald náttúrunnar og náttúrulaganna, sem vér daglega höfum fyrir augum, Spádómarnir rýrna líka þegar vísindamennirnir fara að sanna, að hinn og þessi spádómurinn hafi verið skrifaður eptir að atburður sá skeði er um var spáð o. s. frv.

Eins og sést hefir af Hkr. hefir Prof. Briggs verið dreginn fyrir rannsóknarrétt Presbyt. kirkjunnar í New York en var fríkenndur með 69 atkv. gegn 57. Enn má stefna honum fyrir annan dómstól kirkju þessarar, en vilji dómstóll sá dæma hann sekan, verður hann einnig að dæma þessa 69, sem fríkenndu doktorinn. Fljótt er farið að brydda á því eptir að dómur þessi var kveðinn upp, að fleiri nafnfrægir prestar í kirkjudeildinni muni lýsa yfir því, að þeir geti ekki lengur staðið í kirkjunni sökum skoðana sinna.

(Tekið eptir Rev. J.W.Chadwich. „Un. Magazine.“)

## *ABRAHAM LINCOLN.*

Rithöfundur einn, er ritað hefir um Lincoln átti einu sinni tal við hann og bárust þá trúmál í tal, Mælti Lincoln þá: „Jeg hef aldrei gengið inn í neitt kirkjufélag, af þeirri ástæðu, að ég hef ekki getað fallist á hinar löngu, flóknu setningar hinnar kristnu kenningar, eins og hún kemur fyrír sjónir í trúarjátningum kirknanna. En þegar einhver kirkja vill binda inngöngu í félagið því eina skilyrði og rita yfir altari sitt hið samandregna lögmál og guðspjall frelsarans: „elska skaltu drottinn Guð þinn af öllu

hjarta, allri sálu og öllu hugskoti þínu, og náungann eins og sjálfan þig. "Þá skal ég af heilum huga og hjarta ganga í það kirkjufélag."

# Ársfundur.

*Aðal-ársfundur safnaðanna í Nýja Íslandi verður haldinn á miðvikudaginn 23 dag marzmánaðar þ. á., byrjar í kirkjunni kl. 9. f. m.; mæta þar 2. kosnir menn af söfnuði* hverjum.

*Gimli*, 25. *febr.* 1893.

*Magn. J. Skaptason.*

*ÞESSIR menn hafa borgað „DAGSBRÚN" I. árg.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| Árnes, Hjörleifur Björnsson | $1.00, | Gunnar Gíslason | $0.50, |
| „ Jónas Jónsson | 0.50, | Einar Guðmundsson | 0,50, |
| Gimli, Jóseph Freeman | 1.00, | Jón Guðmundsson | 0,50, |
| „ Kristján Guðmundsson | 1.00, | Hannes Hannesson | 1,00, |
| „ Jón Guðnason | 1.00, | Kristján Lifmann | 1,00, |
| „ Miss Herdís Jónsdóttir | 1.00. | Baldv. Jónsson, Husavick | 1.00, |
| Husavick, Þorst. Sigfússon | 1.00, | Jóhann Schaldemose | 1,00, |
| Hnausa, John B. Snæfeld | 1.00, | Kr. B. Snæfeld | 1.00, |
| „ Einar Markússon | 1.00, | Finnbogi Finnbogason | 1.00, |
| „ Sigurgeir Einarsson | 1.00, | Sigurður J. Vídal | 1,00, |
| „ Sigurbjörn Jónsson | 1.00, | Miss Sigurlaug J. Vídal | 1,00, |
| „ Jónas Jónsson | 1.oo, | Baldvin Jónsson | 1,oo, |
| „ Gunnar Helgason | 1.oo, | Stefán Sigurðsson | 1,oo. |
| Winnipeg, G. Dalmann | 1.oo. | G.A.Dalmann, Minneota | 1 oo, |
| Keewatin, Gísli Jónsson | 1.oo, | Ingibjörg Freeman | 1.oo. |

Útsölumenn blaðsins biðjum vér, að endursenda það af fyrsta eintakinu, sem þeir hafa ekki von um að seljist.

Útsölumaður blaðs vors í Winnipeg, er Mr. St. B. Johnson. 576 Alexander st..

*G. M. Thompson, er „business manager" og féhirðir fyrir blaðið Kaupendur snúi sér því til hans viðvíkjadi afgreiðslu blaðsins og borgun fyrir það. Utanáskrift til hans er Gimli, P. O., Man. Canada.*

„DAGSBRÚN" kemur út ein[illegible] [illegible]nni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vesturheimi; greiðist fyr[illegible]——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Can[illegible]a.

*Prentuð hjá G. M. Thompson—Gimli.*